latneskri beygingu, sem stjórnast af 5 (fimta), sbr. AVGVSTI á st. nr. 1 og MARCI á st. nr. 2. — Ritningargreinin neðst á steininum er úr Esajasi $51_{,11}$ (sbr. $35_{,10}$). — Grafletrið hljóðar þá þannig:

»*Hjer under hviler greptrað erlegt guðsbarn, Guðmundur Sugurðsson. Leistist hjeðan firer christilegt andlát á 75. áre síns aldurs, 5. Decemb[ris] anno 1674.*

*Þeir endurkeiptu drottins munu aptur snúa og til Síon koma*«.

## Nr. 5. **Thorstenus Biørnonis filius.** † 1675.

(Þorsteinn Björnsson).

Þessi Þorsteinn Björnsson var prestur á Útskálum 1638—1660. Munu margir kannast við hann af skáldsögunni »Brynjólfur Sveinsson biskup« eftir Torfhildi Þorsteinsdóttur Hólm. Hann er nokkuð við söguna riðinn, og á bls. 301 er dálítil athugagrein um hann. Þar er útlegging, mjög ónákvæm, af grafskrift þessari.

Steinn þessi er sama efnis og allir hinir, grágrýti (hraungrýti, dolerit) af Garðaholti. Hann er boginn fyrir báða enda. Lengd 180 sm. í miðju og 174 sm. til hliðanna, breidd 68 sm. og þykt um 15 sm. Stafhæðin $4^1/_2$—$6^1/_2$ sm. Fyrir ofan letrið er engilsmynd, andlit og stórir vængir. Neðanundir eru lykkjudrættir (upphleyptir). Letrið er vel gert og steinninn fallegur. Til þess að aðgreina orð o. fl. er hafður 1 depill. Letrið er venjulegir latínuleturs-upphafsstafir; ö-hljóðið er í BIØRNONIS táknað með Ø, sem tekið er úr íslenzku stafrofi; u- og v-hljóð eru táknuð með V. Grafletrið er á latínu og hljóðar þannig:

D.O.M.S.
THORSTENVS.IACET.H
IC.BIØRNONIS.FILIVS.
ILLE.
FLOS.PATRIÆ.ANTIQVA
.MAGNVS.IN.HISTO
RIA.
ANTIQVÆ.HISTORIÆ.V
OS.HEV.LVGETE.LEPO
RES.
VESTRO.MORTVVS.
EST.ILLE.VIR.EXI
TIO
VIXIT.ANNOS.LXIII.
MORITVR.ANNO.∞.DC
.LXXV.REQVIESCAT
.IN.PACE.
P.C.M.O.D.
G.B.F.

D.O.M.S. merkir Deo optimo maximo sacrum; kemur það oft fyrir á legsteinum. Það er útlagt: »Helgað guði beztum og mestum (algóðum og almáttugum)«. Síðan koma auðsjáanlega 2 tvíyrðingar (disticha) og eru síðustu stafirnir af hverju vísuorði settir í línu sér til þess að aðgreina vísuorðin og gera áletranina skýrari og fallegri. Þessir 2 tvíyrðingar hljóða þannig á íslenzku: »Hér hvílir Þorsteinn Björnsson, þessi mikli blómi (þ. e. ágætis fræðimaður) í fornsögu ættjarðarinnar. Ó, harmið, yndisleikar fornsögunnar, þessi maður dó yður til glötunar«. — Þá koma 3 setningar í óbundnu máli: »Hann lifði 53 ár. Dó árið 1675. Hvíli hann í friði«. Stafirnir í 2 neðstu línunum merkja máske: Ponendum (eða poni) curavit maximo optimo domino G.... B.... filius, þ. e. G.... B... son lét setja (legsteininn hinum, eða sínum) mesta og bezta herra. En óvíst er hver þessi G.... B... son hefir verið, enda skiftir það minstu, því að þessi einkennilega grafskrift er mestöll, tvíyrðingarnir báðir, eftir Þorstein sjálfan. Jón prófastur Halldórsson skýrir svo frá séra Þorsteini í »Yfirferð Skálholtsstiftis«[1]): »Epter Sr Bergsvein[2]) hielt Utskála Sr Þorsteinn launsonur Biörns Grimssonar málara[3]), vígður af hr. Gisla Oddsyne, mikeð brota höfuð, siervitur fiölfróður, varð þúnglega spitelskur og blindur kararmaður, fiell samt í þeim veikindum í barneignar hórdóms-mál með Astnyu Hallsteins Dóttur. Vilde reka hennar barnsfaðernes aburð til baka, hvar umm presta stefna var haldenn á Utskálum Ao 1659, d. 6. og 7. Decembr. af profastinum Sr Einare Illugasyne og Fógetanum Tomase Nikulássyne. Liet Sr Þorsteinn flytia sig á Sænginne á Kviktriám uppá alþing, sunnanúr Garðe, og setia hana niður í Þingvalla kyrkiu kór, vafðe máleð framar með flækium helldurenn forsvaraðe fyrer Synodo og miste samt kalleð Ao 1660. Flester sneiddu sig hiá að gefa sig í orðakast við hann. Þá Stadurinn skilde afhendast, var Sr Jon Daðason í Arnarbæle

---

1) „Yferferð Skálhollts-stiftes eðr stutt Agrip Skalhollts-stiftes Presta síðan Reformationis Tíma. Samanskrifað í eitt af Profastinum Sr Jone Halldors syne". Hér er farið eftir handriti, skrifuðu „með hendi Sra Jóns Ketilssonar í Hiarðarholti" (Rask), sem nú er í Árnasafni (AM. Rask 55). Þessi kafli er á bls. 194—5.

2) Bergsveinn Einarsson var prestur á Útskálum til 1638, hann átti föðursystur séra Þorsteins, Guðrúnu; og var hún móðir Þórdísar móður Þormóðar sagnaritara Torfasonar, svo að þeir Þorsteinn prestur og Þormóður voru náskyldir.

3) Hann var sýslumaður í Árnessýslu, dó 1634 (eða 5); hann var sonur þeirra Gríms prests Skúlasonar í Hruna og konu hans Guðrúnar Björnsdóttur prests á Stað í Grindavík. — Sjá um ætt Bjarnar sýslumanns og þeirra systkina Íslenzkar ártíðaskrár bls. 246—49. — Í Espólíns árbókum VII. D. bls. 124 er skrítin smásaga um Björn sýslumann og það hvernig séra Þorsteinn kom undir.

feingenn til að svara, og gegna brogðum kalls. Þegar Sr Þorsteinn átte að berast úr baðstofunne út karldyr, liet Sr Jon rífa niður baðstofu-gaflenn, og færa hann þar út, Sr Þorsteinn liet klæða sig og setia uppá gráan hest, sem hann átte bað leiða hann under sier kríngum staðenn. Það liet Sr Jón ecke epter honum, en liet leiða hestenn kríngum utekofa einn. Hann brann upp að biörtu bále skömmu síðar, og vissu menn eingen efne til þess. Þá hann var fluttur úr Garðe á skipe inn í Hafnarfiörð linte alldrei þann dag skruggum og eldíngum, frá því hann var borenn á skipsfiöl og af henne aptur um kvoldeð. Kona hans var Guðrún dotter Biörns Tumasonar í Skildínganese. Biuggu þaug epter það á eignar-jörð sinne Setberge við Hafnarfiörð. Sr Þorsteinn dó Ao 1675. Hans grafskriftt nógu metnaðarsama, er hann giörðe sier sialfum, má lesa á legsteine yfer honum i Garða kyrkiu garðe so látande:

D: O: M: S:

Thorstenus jacet hic Biörnonis filius, ille flos patriæ antiqva Magnus in historia Antiqvæ historiæ vos hev lugete lepores Vestro mortuus est ille vir exitio.

vivit annos Lxiii Moritur anno ∞ D. c. Lxxv reqviescat in pace. P: C: M: Do: G: B: F:

Börn Sr Þorsteins og Guðrúnar vóru: 1° Jón dó barnlaus. 2° Þóra, mentuð af Föðurnum í Reikníngskunst og öðru fleira« —; kemur svo meira um hana.

Þorsteinn prestur hefir ort fleira en þessa grafskrift sína; hann var eitt af helztu latínuskáldum Íslands á 17. öldinni. Í Árnasafni (A. M. 703, 4to) er enn til kvæðasafn eftir hann, sem kallað hefir verið »Noctes Setbergenses« (Setbergsnætur) og mun það nafn sprottið af upphafsorði fyrsta kvæðisins. Alls eru kvæðin 7, öll á latínu og með sama bragarhætti og grafskriftin, en fremur langt hvert kvæði (3. kvæðið er t. d. 238 tvíyrðíngar), — kvæðasafnið eru þéttskrifuð 20 blöð. 1. kvæðið er: »De principiis rerum eorumque elementis et de rebus quibusdam inde elementatis« (Um sköpun heimsins og tilveruna). 2. kvæðið er: »Secundus tractatus, de geniis qui alfi vulgo dicuntur« (um álfa). 3. kvæðið er: »Tertius tractatus, de hominibus lynceis« (um skygna menn). Svo kemur »Cronologia naturalis mundi duobus tractibus comprehensa« (tímatal heimsins í tveim kvæðum) og er fyrra kvæðið (4.) »Tractatus generalis, de vero fundamento et ratione seculi et omni mundi existendi«, en hið síðara (5.) er »Tractatus specialis, de revolutione et concursu seculorum, observatis 1672«. 6. kvæðið er «Computus solstitialis, ostendens quare, quomodo et quantum solstitia singulis annis, certis

temporibus et diversis seculis a mundi principio per 5852 annos usque ad annum salutis 1671 retrocesserunt« (um sólstöður). Síðasta kvæðið (7.) er »Memoria judicis avari et iniqui« (Minning ágjarns og óréttláts dómara) og undir því er svo fangamark séra Þorsteins.

Það var árið 1660 að séra Þorsteinn varð að fara frá Útskálum. Flutti hann þá þegar að Setbergi fyrir ofan Hafnarfjörð og lifði þar þau 15 ár, er eftir voru æfinnar. Af innganginum að kvæðum hans má sjá, að hann hefir reynt að stytta sér »hið leiða líf« (»pertæsam vitam«) með því að fást við að yrkja, og eftir því sem segir í Árb. Espólíns[1]) hefir hann látið »lesa sér til skemtunar síðan, er voru í mörg hindurvitni«. Þorsteinn hefir fengið þann orðróm á sig, að hann væri göldróttur og bendir það helzt á, að hann hafi verið víða heima; enda bera kvæði hans vott um margs konar lærdóm hans og hefir hann sjálfsagt verið í Skálholtsskóla áður en hann vígðist að Útskálum. Í grafskrift sinni getur hann einskis annars um sig, en að hann hafi verið vel að sér í fornaldarsögu Íslands og hefir hann án efa getað sagt það með sanni, eftir því sem þá gerðist. Fróðleik séra Þorsteins má nokkuð ráða af því, að hann átti sögubók eina mjög stóra, í arkarbroti. Á hana hafði hann látið skrifa ýmsar sögur, nefnil. ágrip af Sturlunga sögu, 17 Íslendingasögur, Hungurvöku og 5 biskupasögur aðrar, um 15 riddarasögur o. fl. Þetta mikla handrit fekk Sigurður Björnsson lögmaður eftir séra Þorstein. Síðan komst Árni Magnússon yfir það og skifti því sundur í margar bækur eftir efni og eru þær nú í safni hans[2]). Á aðra lét séra Þorsteinn Pál Sveinsson skrifara sinn rita Völsunga sögu, Ragnars sögu loðbrókar og Krákumál, og er sú bók nú nr. 2 í arkarbroti í Árnasafni.

## Nr. 6. **Vilborg Sugurðardóttir.** † 1680.

Steinn þessi er burstmyndaður að ofan, 99 sm. að lengd um miðju, 81 sm. á aðra hlið, en ekki nema 74 sm. á hina, því að kvarnast hefir af; 50 sm. að breidd, um 13 sm. að þykt. Stafirnir $3^1/_2$—$4^1/_2$ sm. að hæð. Á burstinni er engilsmynd með stórum útbreiddum vængjum; strik er utan um. Einnig er einfalt strik utan um letrið og neðst á steininum; fyrir utan strikið eru 2 litlir hringir.

---

[1]) VII. D. bls. 24—25. er sagt „frá Þorsteini presti".

[2]) Það eru handritin 121, 158, 181 a—h og k—l og 204, öll í arkarbroti, 326 c og 588 q (afskrift), bæði í 4-bl. broti. Sbr. handritaskrá safnsins.

Þar fyrir neðan er brotið af steininum og má vera að hann hafi verið nokkru lengri í fyrstu eða 100 sm. Í 10. l. aftast eru 2 sammiðja hringir til þess að fylla út bilið sem er á eftir erindinu.

Á milli orðanna eru engin bil eða deplar, en á eftir hverju vísuorði er einn depill, sömul. á eftir skammstafaninni OCT (fyrir OCTOBRIS) í neðstu línu, einnig fyrir framan og aftan töluna 3 í sömu línu. Letrið er líkt og á hinum steinunum, hljóðtáknanir og merking stafanna hin sama og á þeim. Í orðinu *og* í 1. l. er O og G bundið saman; tvöfalt n-hljóð er táknað með N í MØNVM í 1. l.; má vera að gleymst hafi strikið yfir N. Í 7. og 10. l. eru 2 T dregin saman, eitt strik yfir báðum leggjunum. Í enda 9. l. eru A og R dregin saman. Um OCT. í neðstu línu var getið áður; í sömu línu er E og G í endingunni -lega bundið saman, og A⁰ fyrir ANNO. Í ártalinu er núllið helmingi minna en hinir tölustafirnir.

SVGVDIOGMØNVM
GIEDÞECKVAR.GVDS
OKMEDÞOLINMÆDE
BAR.IBRVDKAVPLAM
BSINSBODINER.BLESS
VDVPPRISNVHVILE
RHIER.DROTTINSOR
DVEGSIERVISALIET.
VILBORGSVGVRDAR
DOTTVRHIET. ⊙
VEGFERDARTIMENE
FNDRARHEIDVRSKV
INNV45AR.ENDADEL
OFLGA.3.OCT.A⁰168o
L

Fyrstu 10 línurnar eru 1 erindi, 6 vísuorð, og ríma saman hverjar 2 og 2, er saman standa. Erindið er að mestu leyti auðskilin orðatiltæki úr prédikunar- og biblíumálinu. Um ritháttinn SVGVRDAR (í 9. l.) hefir verið getið hér að framan við st. nr. 4. — DOTTVR í 10. l. er nefnif. og bendir á að myndir hinna fallanna hafi einnig rutt sér til rúms í nefnif., svo sem oft kann að eiga sér stað. Nú segja og skrifa margir *dóttir* í öllum föllum eint.

Hljóðar grafskriftin þannig:

*Sú guði og mönnum geðþeck var,*
*guðs ok með þolinmæðe bar,*
*í brúðkaup lambsins boðin er,*
*blessuð uppris nú hviler hér,*

*drottins orð veg sjer vísa lét,*
*Vilborg Sugurðardóttur hjet.*
*Vegferðartíme nefndrar heiðurskvinnu, 45 ár, endaðe loflega 3. Oct. a[nn]o 1680.*

Hér er ritað GVDI (1. l.) og BODIN (5. l.) en ekki GVDE, BODEN og eru þó i-(e-)hljóð í hreimlausum endingum annars táknuð með E á þessum steini og hinum íslenzku steinunum; i-hljóðið í eignarfallsendingunni *-ins* er ávalt táknað með I á þeim öllum, sömul. í sagnorðsmyndinni *leistist* á st. nr. 4. Nú er í íslenzku bókmáli ætíð ritað *i* í hreimlausum endingum, en fjöldi manna ber fram og skrifar *e* í þessum endingum, einkum á Suðurnesjum, þar sem *e-* og *i-* hjóð annars eru á reiki. Á legsteinum þeim, sem hér er um að ræða, er svo lítil ósamkvæmni í rithætti hreimlausra endinga með i-(-e)hljóði, að útlit er fyrir að framburðinum hafi verið fylgt og að hann komi í ljós af rithættinum. I-hljóðið í þessum endingum er nú eins konar millihljóð milli i- og e-hljóðs.

Nr. 7. **Enarus Enarius** (Einar Einarsson) † 1690
og **Thora Trebonia** (Þóra Torfadóttir) † 1691.

Steinn þessi er 159 sm. langur, 72 sm. breiður, um 16 sm. þykkur. Hæð stafanna 3—4$^1/_2$ sm. Efnið grágrýti (dolerit) eins og í öllum hinum steinunum. Fyrir ofan letrið er lykkjudráttur og í hornunum beggja vegna eru englamyndir. Á milli sjálfrar grafskriftarinnar og tvíyrðingsins neðst á steininum er bil og eru þar höggnar myndir af manni og konu, sem líklega eiga að tákna þau hjónin. Takast þau saman örmum og standa á litlum boga. Lykkjudrættir báðum megin. Mannamyndirnar eru luralegar og illa gerðar. Stjarna er milli ennanna. Neðan undir allri áletraninni er stundaglas í umgjörð og litlar englamyndir í hvoru horninu, svipaðar þeim sem eru á hornunum á steini nr. 2. — Strik er utan um alt saman.

Depill er á eftir hverju orði og töluheild, nema EIVS2³ í enda 4. l. ET í 5. l. og NVNC í enda 13. l. — Fyrir aftan skammstafanirnar PVDICISS og PIISS í 5. l. er tvídepill. Letrið er venjulegt upphafsstafa-latínuletur, nema að því leyti, að kúin eru líkust tölustafnum 2 í laginu og líkt merki er fyrir aftan skammstöfunina D fremst í 4. l., sem merkir DOMINVS; -que er í VNDI2³ (3. l.) og EIVS2³ (4. l.) táknað með þessu kúi og miklu minna merki þar fyrir aftan, sem líkast er tölustafnum 3, en er víst öfugt E (eða epsilon); u- og v-hljóð táknast með V. — Kvarnast hefir úr steininum aftan

af 6. og 7. l. Vantar svo sem einn staf aftan af 6. l.; sést votta fyrir efri hluta af legg af staf; hefir hér að líkindum staðið D. Aftan af 7. l. vantar aftari legginn af H.

Áletranin er á latínu og lítur þannig út:

SVB.HOC.SAXO.CONDVN
TVR.PASTOR.ET.PRÆPOSIT
VS.VIR.VNDI2³.LAVDATISS.
D2.ENARVS.ENARIVS.EIVS2³
PVDICISS:ETPIISS:VXOR.
THORA.TREBONIA.2VO'
ILLE.NATVS.ANNOS.41.H
ÆC.36.POST.DECENNALE.
CONIVGIVM.OBIERE.
ANNIS.1690.ET.
1691.

CORDA.LIGATA.FIDE.MVTV
A.DVM.VITA.MANERET.NVNC
IDEM.TVMVLVS.IVNGIT.VT.
ANTE.THORVS.

Þ. e.: «*Sub hoc saxo conduntur pastor et præpositus, vir undique laudatissimus, dominus Enarus Enarius ejusque pudicissima et piissima uxor, Thora Trebonia, quo[d?] ille natus annos 41, hæc 36, post decennale conjugium obiere annis 1690 et 1691.*

---

*Corda ligata fide mutua dum vita maneret*
*nunc idem tumulus jungit ut ante thorus*«[1]).

Útlagt á íslenzku: »Undir þessum steini eru grafin prestur og prófastur, að öllu hinn ágætasti maður, herra Einar Einarsson og kona hans Þóra Torfadóttir, hin heiðvirðasta og guðhræddasta kona, þareð(?) þau dóu eftir 10 ára hjónaband, hann 41 árs gamall, hún 36, árin 1690 og 1691.

Hjörtu, sem tengdust af trygð tállausri líf meðan entist,
sama nú samtengir gröf, sem áður hjónarúm fyr«.

---

[1]) Þessi tvíyrðingur hefir af misskilningi verið prentaðar í Ljóðmælum Sveinbjarnar Egilssonar (Rvík 1856: bls. 272), eins og hann væri ortur af honum, en það nær engri átt; verður ekki annað séð en að hann hafi verið höggvinn á steininn um leið og alt hitt, sem á honum er.

Séra Einar var sonur Einars prófasts Illugasonar, er var prestur í Kjósinni 1642—85, prófastur í Gullbringu- og Kjósar-prófastsdæmi frá 1657[1]), dáinn 20. febr. 1689. Illugi átti Sesselju Árnadóttur og var lögréttumaður; hann var bróðir Orms sýslumanns í Eyjum; þeir bræður voru synir Vigfúsar sýslumanns á Kalastöðum, er var son Jóns Pálssonar, bróður Alexíusar ábóta í Viðey.[2]) Séra Einar Illugason átti Guðríði dóttur Einars Teitssonar í Ásgarði og Höllu Sigurðardóttur; auk Einars áttu þau séra Snæbjörn, er var prestur á Reynivöllum í Kjós eftir föður sinn[3]), og Guðríði[4]). Séra Einar Einarsson var í Skálholtsskóla og sigldi síðan til Kaupmannahafnar; hann var skrifaður í stúdentatölu við háskólann 30. nóv. 1669 og var Christ. Ostenfeld hans »præceptor privatus«[5]). Hann dvaldi 2 ár í Kaupmannahöfn[6]) og hefir þá verið tímakorn í Svíþjóð á þeim árum[7]). Er hann kom aftur varð hann biskupsskrifari í Skálholti hjá Brynjólfi biskupi Sveinssyni, síðan heyrari (conrector) við skólann í 3 ár, vígðist 1675 og var því næst 2 ár kirkjuprestur í Skálholti[8]). — Segir í Espólíns Árb.[9]) að hann hafi verið helzt hjá Brynjólfi biskupi til skemtunar fyrir andlát hans, »ok mest um kvöld hins fjórða ágústí, ok um nóttina fram til apturbirtu«. — Hann fékk Garða á Álftanest 1678 eftir séra Þorkel Arngrímsson, er dó 1677[10]). 1680 kvæntist hann Þóru dóttur síra Torfa prófasts í Gaulverjabæ Jónssonar frá Núpi Gissurarsonar[11]) og Sigríðar dóttur Halldórs Ólafssonar lögmanns[12]). 1681 varð séra Einar prófastur í Gullbringu- og Kjósar-prófastsdæmi eftir föður sinn. Hann var »gáfumaður vellærður, kunne að haga sier epter tíðenne. Var og einn af þeim 4. próföstum, sem byskupenn M. Þórður tók með sier, til að samantaka Concepteð Nýu laganna, epter annare bók Norsku laganna Ao 1689 epter kóngl: Maj^ts befalningu«[13]).

---

[1]) Sbr. Prestatal og prófasta á Íslandi eftir Svein Níelsson, V. 9.

[2]) Íslenzkar ártíðaskrár eftir Jón Þorkelsson, XXV. ættartafla.

[3]) Prestatal og prófasta á Íslandi eftir Svein Níelsson, V. 9.

[4]) Biskupa sögur II, 645.

[5]) Sbr. Universitetets Matrikel og Kommunitetets Matrikel.

[6]) Yfirferð Skálholtsstiftis s. 207 (sbr. hér að framan).

[7]) Nicol. Dal. Dissertatio de Antiquitatibus Svecicis og Hist eccl. Finni Joh: III. bls. 579.

[8]) Biskupa sögur II, 545; Yfirferð Skálholtsst. s. 207; Hist. Eccl. III. 579.

[9]) VII. D., s. 84.

[10]) Yfirferð Skálholtsst. s. 207. Hist. eccles. III, 579. Esp. Árb. VII. 89.

[11]) Um alla þá ætt sjá Safn til sögu Íslands I, 648—9.

[12]) Yfirf. Skálholtsst. s. 207. Bisk. sögur II. 645.

[13]) Yfirf. Skálholtsst. s. 207, sbr. Hist. eccl. III, 675 (þar er ártalið skakt prentað 1669).

Eftir dauða séra Ólafs Jónssonar í Hítardal fékk séra Einar konungl. veitingu fyrir því brauði 1690[1]), »en kom þangað þó ei, þar hann deyðe það sama haust, nálægt Allra H. mo 41. árs gamall, úr þeirre mannskiæðu landfarsótt, sem þá geck yfer. Var hann þá á heimreið úr skifttum frá Gaulverjabæ epter Sr Torfa Jónsson. Komst að Hólme fyrer sunnan Hellersheiðe, lá þar fáa daga í strangre sótt, sem hann leidde til bana«[2]). Allra heilagra messa er 1. nóv., en síra Einar dó að því er segir í ártíðaskrá séra Hannesar Björnssonar 21. okt. 1690[3]). Í ártíðaskrá Sig. lögm. Björnssonar stendur 21. okt. 1691, en þar er ártalið rangt[4]).

Í Árnasafni (A. M. 96, 8vo, bls. 23—37 r) er til í handriti »Lýfs Historia þeýrrar Gøfugu og lofsverðugu Hofðings kvinnu Helgu Magnus döttur Ad Bræðratungu. — Samantekin af Heýðarlegum kiennemanne Sr Einare Einarssine«.

Þóra lifði ekki lengi mann sinn. »Hún ól Tvíbura epter hann dauðann, sialfann Jóladagenn, hlutu báðer skírn, dóu báðer og hún einnenn nockru seinna«[5]). Þóra Torfadóttir andaðist 1. jan. 1691[6]).

Þau Einar og Þóra áttu auk tvíburanna, er hún fæddi síðast og dó af, 5 börn önnur[7]). Séra Jón Halldórsson skýrir þannig frá þeim[8]): »(1° Brinjólfur, gott mannsefne, útlærður, dó ógiftur í bólunne. (2° Málfríður seinne kona Sigurðar sýslumans eldra. (3° Ingebiörg, kona Sigurðar syslumans yngra, sonar Sigurðar lögmans Biörnssonar. (4° Margret, átte fyrst Benedict Magnusson Beck syslumann í Hegraness þinge. Síðar Guðmund skólameistara son byskups Hr. Steins, drucknuðu báðer vofeiflega, sá fyrre á siötta sunnudag epter páska 1719 í Hieraðsvötnonum, hinn síðare á Skagafirðe Ao 1723. (5° Halldóra, giftest ecke«.

---

[1]) Yfirf. Skálholtst. s. 207. Hist. eccl. III. 579, Prestatal VII. 6; sbr. þó Ísl. ártíðaskr. 254 (þar segir 24. ág. 1689).

[2]) Yfirf. Skálholtst. s. 207, sbr. Ísl. ártíðaskr. og Hist. eccl. l. c.

[3]) Ísl. ártíðaskr. bls. 197; sbr. Esp. Árb. VIII. 25.

[4]) Ísl. ártíðaskr. s. 219.

[5]) Yfirf. Skálholtsst. s. 207; sbr. Ísl. ártíðaskr. s. 197.

[6]) Ísl. ártíðaskr. 193 og 197; á bls. 219 segir að hún hafi dáið 1. des. 1691, en það er rangt, — og sömul. það er segir í Esp. Árb. VIII. 25 og Safn t. s. Ísl. I. 648—9, að hún hafi dáið 1690.

[7]) Ísl. ártíðaskr. 187; Esp. Árb. VIII. 25.

[8]) Yfirf. Skálholtsst. s. 207.

## Nr. 8. **Olaver Petersøn** (Ólafur Pétursson) † 1719.

Steinn þessi er að vísu frá 18. öld, en þar eð hann er nú orðinn nær tveggja alda gamall og miklu eldri en aðrir yngri steinar í þessum kirkjugarði, er hann tekinn með hér. Hann er brotinn sundur í tvent og kom annað brotið upp úr húskjallaranum fyrir nokkrum árum. Steinninn mun vera nokkuð genginn. Lengd: 73 + 62 sm., breidd: 52 sm., þykt: um 13 sm. 6 fyrstu línurnar eru með stærra letri en hinar og eru stafirnir 5 sm. háir í þeim, en annars er stafhæðin 3 sm.

Fyrir ofan letrið er engilsmynd með stórum vængjum, er enda í rósaflúri. Neðan undir letrinu er mjór bekkur með sams konar dráttum og er þetta laglega gjört. Bekkur er utan um alt saman.

Á milli flestra orða er bil. Tvípunktur er á stöku stað svo sem hér er prentað. Letrið er latínuleturs-upphafsstafir svo sem á hinum steinunum. V er táknað með W í WEL- í 3. l. Y er líkast litlu skáleturs y-i (kemur fyrir í 8., 12. og 14. l.) eins og á st. nr. 1.

Brotið er í 12. og 13. l., svo að á stöfunum á aftara hluta 12. l. sést að eins efri hlutinn á efra brotinu og neðri hlutinn á neðra brotinu; sumir stafirnir sjást að eins hálfir, en vel má þó ráða hvað staðið hafi. — Áletranin er á dönsku og lítur þannig út:

HER UNDER UDI
HERREN HUILER
DEN WELÆRVÆR
DIG: NU SALIGE
Hr: OLAVERPETER
SØN
FORRIGE SOGNEPRÆST
PAA GLAUMBAY OG SID
EN HER VEDSTEDEN
PROVST I DETTE HERRED
SOMLEFDE MEGETGVD
FRYGTIGISIT EMBEDE
OG CHRISTELIGHEN
SOF DEN: 2: IULY:
A° 1719 UDI HANS
ALDERS59 AAR:
APOCAL: 14: V: 13:
SALIGEEREDE DØDE
SOM DØE IHERREN IA
AANDEN SIGER AT DE
SKULLE HVILE AF DERES
ARBEIDE:
CANT:6:V3:
MIN VEN ER MIN OG
**IEG ER HANS:**

WELÆRVÆRDIG: í 3.—4. l. er fyrir WELÆRVÆRDIGE. H: fyrir HERR. OLAVER PETERSØN í 5.—6. l. er danskað úr Ólafur Pétursson, og GLAUMBAY úr *Glaumbœ*. A° fyrir Anno. APOCAL: í 17. l. fyrir *Apocalypse* (þ. e. opinberun, Jóhannesar). V í 17. l. og 23. l. fyrir *Vers*. CANT: í 23. l. fyrir CANTUS (cantorum, þ. e. Ljóðaljóð eða »Lofkvæði Salomons«).

Á íslenzku hljóðar þetta svo:

»Hér undir hvílir í drotni hinn velæruverðugi nú sæli herra Ólafur Pétursson, fyrrum sóknarprestur í Glaumbæ og síðan hér á staðnum, prófastur í þessu héraði, sem lifði mjög guðrækilega í embætti sínu og andaðist kristilega 2. júlí 1719 á 59. aldursári sínu.

Opinb. 14. v. 13:

Sælir eru hinir dánu, sem deyja í drotni. Andinn segir og, að þeir skuli hvílast eftir erfiði sitt.

Ljóðalj. 6. v. 3:

Minn vinur er minn og jeg er hans«.

Séra Jón prófastur Halldórsson skýrir svo frá séra Ólafi í Yfirf. Skálholtsst., bls. 208—9: »Sr Ólafur sonur Sr Peturs norður á Upsum Jonssonar prests á Tiörn Guðmundssonar[1]) og Solveigar dottur Sr Jóns Eigilssonar á Völlum í Svarfaðardal, var fyrst þienare byskups M. Jóns Vigfússonar á Hólum síðan skrifare amtmans Mullers, gifttest þiónustustúku á Bessastöðum Holsteinskre að ætt Magretu Elizabeth Bojens, og þá veitte amtmaður honum fyrst Glaumbæ fyrer norðann. En á hans fyrsta áre þar dó Sr Brinjólfur í Görðum, og epter bón Sr Ólafs, veitte amtmaður honum Garða stað, so Sr Ólafur flutte sig til Garða Ao 1697 (mun rangt, eiga að vera 1694, eða 5)[2]) en árenu epter varð hann að sleppa kallinu við Sr Jón Þorkelsson, bió þó í Sóknenne og fieck síðann Garða-stað aptur Ao 1699. Sagðe það af sier aptur Ao 1708. Hann dó under alþing Ao 1719, átte epter eina dóttur heilsuveika. Dó hún skömmu síðar«.

---

Í fyrra hluta þessarar ritgerðar, Árb. 1904, bls. 33—40, eru nokkrar prentvillur og frábrugðnir stafir ekki prentaðir rétt: bls. 35, 7. l. og 36, 13. l. eru hin samandregnu þé (Þ) prentuð IÞ fyrir ÞÞ; bls. 36, l. 2 er SRA f. SRA, s. 37, l. 30 *hvílir* f. *hvíler* og *Nicholás* f. *Nichulás*; s. 39, 2. og 11. l. TT f. TT, 20. l. *ærligur* f. *ærlegur*.

---

[1]) Séra Jón á Tjörn í Svarfaðardal er sagður Gunnarsson í Prestatali Sv. N., bls. 175.

[2]) Líklega athugasemd afskrifarans, séra Jóns Ketilssonar.

# Yfirlit

## yfir muni, selda og gefna Forngripasafni Íslands árið 1905.

---

[Tölurnar fremst sýna tölumerki hlutanna í safninu, í svigum standa nöfn þeirra, er gefið hafa safninu gripi].

5175—78 Brýnisstúfur, blýstykki lítið með gati og steinbrot með gati, leifar af hníf og ýmislegt járnarusl. Fundið á Einhyrningsflötum á Grænafjalli.

5179—84 Brot af beizlisstöng, sporöskjulöguð hálfkúla úr bronzi, skeifa fjórboruð, beizlishringjur þríhyrndar, krókur úr bronzi og mót(?) úr linum steini. Fundið við Eystri-Rangá nálægt Stórólfshvoli.

5185 Fornt sverð jarðfundið nærri Skógum í Fnjóskadal.

5186 Gamalt nálhús úr tré blýslegíð, með stöfum.

5187 Gamall hempuborði flosaður.

5288 Grafskjöldur úr silfri yfir frú Þorbjörgu Bjarnadóttur konu Jóns vicelögmanns Ólafssonar.

5189—95 Hnappur kúptur úr kopar, parastokkur, beltisstokksbrot, hempukrókur, krókaparssproti, túskildingur og steinsnúður úr fitusteini. Fundið á Skálatóftum í Landi.

5196 Tóbaksponta úr horni með verki.

5197—200 Ennislauf úr kopar, beizlisstengur úr kopar, hamólarhringjur og reiðgjarðarhringja úr kopar.

5201 Leifar að bókspenslum? úr kopar.

5202 Dúkur úr grænu íslenzku vaðmáli, útsaumaður. Úr eigu Bjarna riddara Sivertsen.

5203 Gamalt jarðfundið innsigli úr tini, með rúnastöfum.

5204 8 silfurhnappar (peysuhnappar) kúptir, með 4 blaða rós í kolli.

5205 Gleraugu með íslenzkri silfurumgerð.

5206 Gamalt skorið drykkjarhorn. Vestan af landi.

5207 Heinarstúfur með myllu- og hnappamótum.

| | |
|---|---|
| 5208 | Skotrokkur. |
| 5209 | Kassi með dragloki, skorinn, frá 1788. |
| 5210 | Tóbaksponta, silfurbúin, úr rostungstönn. |
| 5211 | Peningapoki útsaumaður með augnsaum, frá 1869. |
| 5212 | Signet úr messing með steini í og mannsmynd. Fundið í kirkjugarði á Kvennabrekku. |
| 5213 | Gömul kommóða, skorin á forhlið. |
| 5214 | Gylt silfurbelti á flauelslinda, með ágætu upphleyptu verki. Austan undan Eyjafjöllum. |
| 5215 | Lítill brýnisstúfur úr hein. Fundinn í Granagili fyrir norðan Búland í Skaftártungu. |
| 5216 | Tvær litlar pjötlur ofnar. Fundnar á sama stað. |
| 5217—18 | Fjórar spennur úr bronzi með fornu verki. Fundnar á sama stað. |
| 5219 | Leifar af hálsfesti(?) úr gleri. Fundnar á sama stað. |
| 5220—25 | Sex bankaseðlar norðan úr landi frá árunum 1791—94 og 1801. |
| 5226 | Flossessa. Austan úr Landeyjum. |
| 5227 | Lítill kertastjaki úr látúni með verki. Ur Skálholtskirkju. |
| 5228 | Spjald úr tré gagnskorið (áttaviti), með stöfum og ártalinu 1833. Frá Þórðarstöðum í Fnjóskadal. |
| 5229 | Vefjarskeið, stór, úr hvalbeini. Frá sama stað. |
| 5230 | Knipliskrín, skorið á forhlið. Frá sama stað. |
| 5231 | Snældusnúður úr tré, skorinn. Frá sama stað. |
| 5232 | Vélalok með áskorinni rímtöflu. Frá sama stað. |
| 5233 | Sex fjalir úr milligerð milli kórs og kirkju. Frá sama stað. |
| 5234 | Lítið kökumót. Skorið. Frá sama stað. |
| 5235 | Söðulskjöldur með gagnskornu verki og höfðaletri. Frá sama stað. |
| 5236 | Söðulreiði frá 1750, látúnsleginn. Frá sama stað. |
| 5337-39 | Beizlisstengur, ádrættir og gjarðahringja úr kopar. Frá sama stað. |
| 5240—43 | Fern kjaftamél úr járni. Frá sama stað. |
| 5244 | Járnhalda gömul með lykkjum og keng. Frá sama stað. |
| 5245 | Mellulás úr járni. Frá sama stað. |
| 5246—47 | Tveir pípulyklar. Frá sama stað. |
| 5248 | Hurðarhringur úr járni. Frá sama stað. |
| 5249—50 | Tvö spjót jarðfundin, forn. Frá sama stað. |
| 5251 | Döggskór úr bronzi, forn. Frá sama stað. |

5252 Nál eða stýll úr bronzi með hring í endanum. Frá sama stað.
5253 Plata margstrend úr dökku efni gljáandi með gati í miðju. Frá sama stað.
5254 Hollenzkar tóbaksdósir úr látúni. Frá sama stað.
5255—56 Bókbandsrulla með koparhjóli og hjól af annari rullu. Frá sama stað.
5257 Kirkjuhurðarhringur úr kopar frá 1787. Vestan úr Dalasýslu.
5258 Fornt fjaðraspjót, fundið 1893 á uppblásnum stað á Jökuldalsheiði eystra.
5259 Koparhringja stór, rauðmáluð.
5260 Skáphurð, máluð, með konumynd. Norðan úr Strandasýslu.
5261 Skorinn trélisti frá rúmi á Kleppi, með versbroti. Upphaflega úr Gufunesskirkju.
5262 Mynd af ungri stúlku frá Möðruvöllum í íslenzkum skautbúningi.
5263 Rúmfjöl, skorin, frá 19. öld.
5264 Beltispör og skjöldur úr silfri.
5265 Bikar úr silfri 1731. Vestan af landi.
5266 Stór blöndukanna úr tré með skornu loki. Vestan frá Stórholti í Dalasýslu.
5267 Tarína úr tré með eyrum, rend, með loki. Frá sama stað.
5268 Rúmfjöl, skorin, með verki. Frá sama stað.
5269—71 Fimtán hvítar kotrutöflur, tólf grænar, rendar úr hvalbeini og tveir teningar. Frá sama stað.
5272 Stokkur úr tré, skorinn á hliðum, göflum og loki, frá sama stað.
5273—74 Tveir stokkar skornir, loklausir. Frá sama stað.
5275 Tóbaksponta úr tré með beintappa. Frá sama stað.
5276 Peningabudda, balderuð, frá 1813. Frá sama stað.
5277—93 Millur úr kopar og prinsmetal af ýmsri gerð, 33 að tölu. Frá sama stað.
5294—95 Fimm silfurhnappar. Frá sama stað.
5296—99 Fimm hnappar úr látúni. Frá sama stað.
5300 Hnappur, kúptur, úr látúni. Frá sama stað.
5301 Kaffikanna íslenzk, úr eiri. Frá sama stað.
5302 Skírnarfat úr leir.
5303 Stór ólarhringja úr kopar með járnþorni. Frá sama stað.
5304—05 Þrjár gjarðahringjur minni, úr kopar. Frá sama stað.

5306 Beizlishöfuðleður með búnaði og stöngum. Frá sama stað.
5307 Lyklasylgja úr kopar gagnskorin. Frá sama stað.
5308 Olíumálverk af Sigurði Guðmundssyni málara eftir sjálfan hann.
5309 Sykurker gamalt úr bláu gleri í stórri silfurumgjörð. Úr eigu Árna umboðsmanns Thorlacius.
5310 Parastokkur, loklaus, með höfðaletri, frá 1749.
5311 [Hr. Páll Jóhannesson í Fornhaga]. Kringlóttur hlutur úr kopar (af kertastjaka?).
5312 [Stefán bóndi Árnason Steinstöðum]. Skjaldmynduð koparspenna af beltis- eða hempupari.
5313 [Sami]. Lyklasylgja úr kopar.
5314—16 [Sami]. Tveir beizlisskildir og 4 doppur úr kopar, þrjár sviftir úr járni. Jarðfundið skamt frá Glæsibæ í Eyjafirði.
5317 [Sami]. Stórt ístað úr járni, jarðfundið.
5318 [Hr. Tómas Tómasson á Egilsá í Skagafirði]. Stór kjaftmél, jarðfundin nálægt Bakkaseli í Öxnadal.
5319 [Friðfinnur Jóhannsson á Egilsá]. Brot á einkennilega úthöggnum steini. jarðfundnum við kjallaragröft í Borgargerði í Norðurárdal.
5320 [Brynjúlfur fornfræðingur Jónsson]. Fimmboruð fornleg skeifa, jarðfundin nálægt Nautavaði.
5321 [Páll verzlunarstjóri Jónsson Djúpavogi]. Leifar af hnífblaði jarðfundnum.
5322 [Sami]. Lítið brot úr gráleitum steini með gati.
5323 [Stefán kennari Stefánsson á Akureyri]. Brunaleifar af fatnaði og dúkum. Fundið í Brunarústum á Möðruvöllum í Hörgárdal.
5326 [Sami]. Leifar af 2 snældusnúðum. Frá sama stað.
5327 [Sami]. Kápuhnappur úr látúni brotinn. Frá sama stað.
5328 [Sami]. Trektmyndaður hlutur úr leiri. Frá sama stað.
5329 [Sami]. Leifar af eirpotti. Frá sama stað.
5330—31 [Sami]. Kolamolar og járnrusl. Frá sama stað.
5331 [Hr. Guðjón Jónsson Bjóluhjáleigu]. Smápeningur enskur úr blýi.
5332 [Ingeniör Lunn]. Þýzkur silfurpeningur.
5333 [Óviss gefandi]. Lítill silfurpeningur [20 cent].

---

# Skýrsla.

## I. Ársfundur félagsins 1906.

Ársfundur félagsins var haldinn mánudaginn 17. des. Eftir að formaður hafði minst tveggja látinna félagsmanna, Hallgríms Melsteðs bókavarðar og Ólafs Guðmundssonar læknis, lagði hann fram reikning félagsins fyrir 1905 og hafa endurskoðendur ekkert fundið við hann að athuga. Því næst skýrði hann frá rannsóknarferðum Brynjúlfs Jónssonar næstliðið sumar út í Vestmanneyjar og upp á Þórsmörk. Hann mintist og á prentun registursins við árbækur félagsins 1880—1904 og árbókarinnar fyrir 1906. Eptir nokkrar umræður um rannsóknir fornleifa hér á landi bar formaður upp þá tillögu félagsstjórnarinnar, að gera Brynjúlf Jónsson að heiðursfélaga í þakklætisskyni fyrir margra ára starf hans í þjónustu félagsins, og var það samþykt í einu hljóði.

## II. Reikningur hins íslenzka Fornleifafèlags 1905.

Tekjur:

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| 1. Í sjóði frá fyrra ári | | | kr. | 1071 | 45 |
| 2. Tillög félagsmanna og seldar Árbækur | | | — | 172 | 55 |
| 3. Styrkur frá Forngripas. til að spyrja upp forngripi | | | — | 100 | 00 |
| 4. Styrkur úr landssjóði | | | — | 400 | 00 |
| 5. Selt verkfæri frá Hörgsdalsgrefti | | | — | 1 | 50 |
| 6. Vextir á árinu: | | | | | |
| a. af bankavaxtabréfi | kr. | 22 50 | | | |
| b. af innst. í sparisjóði | — | 1 10 | | | |
| | | | — | 23 | 68 |
| 7. Til jafnaðar mót gjaldlið 4 | | | — | 300 | 00 |
| Samt. | | | kr. | 2069 | 18 |

Gjöld:

| | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| 1. Kostnaður við Árbók 1905 . . . . . . . . . | | | kr. | 280 | 21 |
| 2. Greitt Brynjólfi Jónssyni fyrir fornleifarannsóknir | | | — | 180 | 00 |
| 3. Ýmisleg útgjöld . . . . . . . . . . . . . . | | | — | 2 | 80 |
| 4. Keypt bankavaxtabréf Litr. C. 1797—99 með vöxtum frá 1/7 1905 . . . . . . , . . . . . . | | | — | 300 | 00 |
| 5. Í sjóði við árslok 1905: | | | | | |
| a. bankavaxtabréf . . . . . . . kr. | 800 | 00 | | | |
| b. í sparisjóði Landsbankans. . . . — | 32 | 70 | | | |
| c. hjá féhirði . . . . . . . . . . — | 473 | 47 | | | |
| | | | — | 1306 | 17 |
| Samt. | | | kr. | 2069 | 18 |

Reykjavík, 17. desember 1906.

*Þórh. Bjarnarson.*

## III. Félagar.

### A. Æfilangt.

Ásgeir Blöndal, læknir, Eyrarbakka.
Anderson, R. B., prófessor, Ameríku.
Andrés Féldsteð, bóndi á Trönum.
**Árni B. Thorsteinsson,*[1]) komm. dbr. f. landfógeti, Reykjavík.
Bjarni Jensson, læknir í Síðuhéraði.
Björn Guðmundsson, kaupm., Rvk.
Björn M. Ólsen, dr., r., prófessor, Rvk.
Bogi Melsteð, cand. mag., Khöfn.
**Bruun, Daniel,* kapteinn í hernum, Khöfn.
**Brynjúlfur Jónsson,* dbrm., fræðimaður, Minnanúpi.
Carpenter, W. H., próf., Columbiaháskóla, Ameríku.
Collingvood, W. G., málari, Coniston, Lancashire, England.
Dahlerup, Verner, cand. mag., bókav., Khöfn.
Eggert Laxdal, verzlunarstj., Akureyri.
Eiríkur Magnússon, M. A., r., bókav., Cambridge.
**Elmer Raynolds,* dr., Washington.
Feddersen, A., Stampe, frú, Rindumgaard pr. Ringköbing.
Friðbjörn Steinsson, bóksali, Akureyri.
Gebhardt, August, dr. fil., Nürnberg.
Goudie, Gilbert, F. S. A. Scot., Edinb.
Hjörleifur Einarsson, r., próf., Undirf.
Horsford, Cernelia, miss, Cambridge, Massachusetts, U. S. A.
Indriði Einarsson, revisor, Rvk.
Jóhannes Böðvarsson, trésm., Akranesi.
Jón Borgfirðingur, fræðimaður, Rvk.
Jón Gunnarsson, verzl.stj., Hafnarfirði.
Jón Jónsson, prófastur, Stafafelli, Lóni.
Jón Vídalín, konsúll, r., Rvk.
Jónas Jónasson, prófastur, Hrafnagili.

---
1) Stjarnan (*) merkir heiðursfélaga.

Kjartan Einarsson, prófastur, Holti.
Kristján Zimsen, konsúll, Rvk.
Lárus Benediktsson, f. prestur, Rvk.
Löve, F. A., kaupmaður, Khöfn.
Lehmann-Filhés, M., fraülein, Berlin.
Magnús Andrésson, próf., r., Gilsbakka.
Magnús Stephensen, stkr. af dbr. og dbrm., f. landshöfðingi, Rvk.
Matthías Jochumsson, r., f. prestur, Akureyri.
Müller, Sophus, dr., museumsdirektör, Khöfn.
*_Nicolaisen, N._, antikvar, Kria.
Ólafur Johnsen, f. yfirk., r., Óðinsvé.
Phené, dr., Lundúnum.
Schjödtz, cand. pharm., Óðinsey.
Sighvatur Árnason, dbrm., Rvk.
Sigurður Stefánsson, prestur, Vigur.
Stefán Guðmundsson, verzlunarfulltrúi, Khöfn.
*_Storch, A._, laboratoriums-forstjóri, Khöfn.
Styffe, B. G. (r.-n.) dr. fil., Stokkhólmi.
Sæmundur Jónss., b., Minni-Vatnsleysu.
Torfhildur Þ. Hólm, frú, Rvk.
Torfi Bjarnason, skólastj., r., Ólafsdal.
Valtýr Guðmundsson, dr. phil., docent, r., Khöfn.
Vilhj. Stefánsson, Peabody Museum, Harvard University, Cambr. Mass., U. S. A.
Wendel. F. R., jústizráð, Khöfn.
Wimmer, L. F. A., dr. fil., próf., komm., dbrm., Khöfn.
Þorgrímur Johnsen, f. héraðsl., Rvk.
Þorsteinn Erlingsson, cand. phil., Rvk.
Þorvaldur Jakobsson, prestur í Sauðlauksdal.
Þorvaldur Jónsson, f. héraðsl., r., Ísafirði.
Þorvaldur Jónsson, r., prófastur, Ísafirði.
Þorvaldur Thoroddsen, dr., r., prófessor, Khöfn.

## B. Með árstillagi.

Árni Jónsson, prófastur, Skútustöðum, 1905.[1])
Amira, Karl v., próf., München, 06.
Arpi, Rolf, dr. fil., Uppsölum, 05.
B. B. Postur, Victoria, Brit. Canada, 08.
Björn Jónsson, ritstj., r., Rvk, 05.
David Scheving Thorsteinsson, héraðslæknir, Ísafirði, 80.
Eiríkur Briem, prestaskólakenn., komm. dbr., Rvk, 05.
Finnur Jónsson, dr., prófessor, r., Khöfn, 05.
Forngripasafnið í Rvík, 05.
Geir Zoëga, kaupm., dbrm., r., Rvk, 05.
Gering, Hugo, prófessor, dr., Kiel, 05.
Gräfe, Lukas, bóksali, Hamborg, 06.
Greipur Sigurðsson, b., Haukadal, 06.
Guðmundur Hannesson, Galtarnesi, Víðidal, 98.
Guðm. Helgason, próf., Reykholti, 05.
Guðni Guðmundsson, læknir, Borgundarhólmi, 85.
Gustafson, G. A., filos, licentiat, konservator, Bergen, 93.
Halldór Briem, kennari, Akureyri, 00.
Halldór Daníelsson, bæjarfóg., r., Rvk, 05.
Hallgrímur Sveinsson, komm. dbr., biskup, Rvk, 05.
Hannes Þorsteinsson, cand. theol., ritstjóri, Rvík, 05.
Harrassowits, Otto, bóksali, Leipzig, 05.

[1]) Ártalið merkir, að félagsmaður hefir borgað tillag sitt til félagsins fyrir það ár og öll undanfarin ár, síðan hann gekk í félagið.

Hauberg, P., r., Museumsinspektör, Khöfn, 01.
Heydenreich, W., dr., Günzburg, 06.
Hinrik K. Hugason Bürgel, Leipzig, 02.
Jóhannes Sigfússon, adjunkt, Rvk, 87.
Johnston, A. W., hon. treasurer, Viking Club, Lundúnum, 04.
Jón Jakobsson, forngripav., Rvk, 05.
Jón Jensson, yfirdómari, Rvk, 05.
Jón Jónsson, héraðsl., Blönduósi, 99.
Jón Jónsson, sagnfræðingur, Rvk, 05.
Jón Þorkelsson, dr., landsskjalavörður, Rvk, 05.
Jósafat Jónasson, Winnipeg, 00.
Kaalund, Kr., dr. phil., Khöfn, 05.
Kristján Jónsson, yfirdómari, Rvk, 05.
Lestrarfélag Fljótshlíðar, 05.
Lestrarfélag Austurlandeyinga, 96.
Magnús Helgason, prestur, kennari í Hafnarfirði, 04.
Matth. Þórðarson, stud. mag., Rvk, 04.
Meissner, R., dr., próf., Göttingen, 04.
Mollerup, V., dr. phil., r., Musemsdirektör, Khöfn.
Mogk, E., dr., prófessor, Leipzig, 03.
Montelius, O., dr. phil., Am., Stokkhólmi, 05.
Ólafur Ólafsson, fríkirkjuprestur, Rvk, 81.
Páll E. Ólason, stúdent, Rvk, 05.
Pálmi Pálsson, adjunkt, Rvk, 05.
Pétur Jónsson, blikkari, Rvk, 05.
P. J. Thorsteinsson, konsúll, Ísaf., 00.
Sigfús H. Bjarnarson, konsúll, Ísaf., 94.
Sigurður Gunnarsson, próf., Stykkishólmi, 81.
Sigurður Kristjánss., bóks., r., Rvk, 05.
Sigurður Ólafsson, sýslumaður, Kallaðarnesi, 05.
Sigurður Þórðarson, sýslumaður, Arnarholti, 03.
Staatsbibliothek í München, 05.
Stefán Egilsson, múrari, Rvk, 84.
Steingrímur Thorsteinsson, rektor, r., Rvk, 05.
Steinordt, J. H., V., theol, & phil., dr. (r. n.), Linköping, 93.
Tamm, F. A., dr., docent, Uppsölum, 03.
Tryggvi Gunnarsson, bankastj., komm., dbrm., Rvk., 05.
Valdimar Briem, r., próf., Stóranúpi, 05.
Þóra Jónsdóttir, frú, Rvk, 05.
Þórður J. Thorodds., bankagjk., Rvk, 80.
Þórhallur Bjarnarson, lector, r., dbrm., Rvk, 05.
Þorleifur J. Bjarnason, adjunkt, Rvk, 05.
Þorleifur Jónss , prestur, Skinnastað, 07.
Þorsteinn Benediktss.,pr., Bergþórsh.,98.
Þorsteinn Jónsson, f. héraðslæknir, r., Rvk, 06.

# Efnisyfirlit.



**Leiðréttingar við Árbók 1905:**

**Bls. 11, l. 35: utan les: austan. Bls. 37, l. 36: Þverár les: Þurár. Bls. 37, l. 37: nokkur laut les: nokkuð langt. Bls. 40, l. 17: austri les: vestri. Bls. 54, l. 11: neðan les: ofan.**

## Þingey.

Djúpá

1. Skipapollur.
2. Ullarfoss.
3. Skuldaþingsey.
4-4. Þinglág.
5. Hengingarklettar.
6. Þingstaðurinn.
7. Sandbrotavað.
8. Uppblástur.
9. Vað á kvíslinni.
10. Bjúgey.

## Þingeyjarþingstaður.

a. Þinghóll. b-b. nývirki: bæjartóft o. fl.

## Þingeyraþingstaður (með bæ o. fl.).

1-1. Útsljettaðar tóftir (búðir). 2. dómhringur. 3-3. Gömul gerði og garðar. 4-4. Öskuhaugar og húsarústir. 5-5. bæjarhús. 6. skemmur. 7-7. traðir. 8-8. túngarður. 9. heygarður og fjós. 10-10. fjárhús. 11-11. nýlegar tóftir. 12-12. sljettur. 13..hlaðbrekka og framhald hennar. 14. tóft, sem nýlega er útsljettuð. 15. gamall sáðgarður. 16. kirkja. 17. kirkjugarður. 18. götustígur.

Festarklettur (Galtarhamar).



Böðólfsstaðir á Tjörnesi.



Glúmstaðir. (Glúmsel).



a. Seltóftin.
b. hóll.
c. mýrardrag.
d. gilskora.
e. tóin, sem Gl. hljóp í.
f-f. áin.
g. brekka.
h. hamrar.
i. þrep í hömrum.

Afstöðu-uppdráttur afdala Fnjóskadals.
Tölurnar sýna eyðibýli í sömu röð og textinn.




Bygðir bæir á uppdrættinum:
a. Sörlastaðir. b. Hjaltadalur. c. Snæbjarnarstaðir. d. Tunga. e. Reykir.